# Verkalýðsblaðið

1.tölublað 10.árgangur | 31.janúar 1981 | verð kr 4.oo


## Súráls-málið

### Um hvað á að semja?

Að undanförnu hefur súrálsmálið svokallaða verið til umræðu í fjölmiðlum. Af skiljanlegum ástæðum hefur umræðan að mestu snúist um þá miklu hækkun sem verður á súrálsverði á leiðinni frá Gove í Ástralíu til Íslands. Tök alþjóðlegra auðhringa á borð við Alusuisse á áliðnaðinum og aðferðir þeirra til að láta gróðann koma fram þar sem þeim hentar best hafa hins vegar lítið verið ræddar.



Álverið hefur fengið orku á gjafverði. Á sama tíma er vart framleidd næg raforka fyrir hinn almenna notanda. Myndin er af Sigölduvirkjun.

HVER Á HVAÐ?

Í fréttum er iðulega talað um dótturfyrirtæki Alusuisse í Ástralíu (Swiss Aluminium Australia Ltd.) sem eignaraðila að fyrirtækinu sem framleiðir umrætt súrál.

Málið er bara ekki svona einfalt. Í ljós kemur að formlegur eigandi Swiss Aluminium Australia Ltd. er ekki Alusuisse, heldur dótturfyrirtæki þess, sem heitir Alusuisse International NV Curaco.

Það sem einkum er merkilegt við þetta fyrirtæki er staðsetning þess. Curaco er eyja í Hollensku Indíum úti fyrir strönd Venezuela. Hún er ein af þessum svokölluðu "skattafríhöfnum". Fyrirtæki sem skráð eru þar hafa ekki framtalsskyldu og mörg þeirra eru bara nafnið tómt, starfsemi þeirra er fólgin í rekstri einnar skrifstofu eða þau hafa þar póstbox.

Það skyldi þó aldrei vera að hækkunin í hafi hafni á Curaco eyju. Það væri a.m.k. hagstætt fyrir Alusuisse að láta gróðann koma fram í "landi" þar sem ekki þarf að telja fram og þar af leiðandi ekki að borga neina skatta.

Til gamans má geta þess að umrætt fyrirtæki á Curaco eyju veitti árið 1975 ÍSAL rekstrarlán að upphæð 5oo.ooo dollara.

Um hvað á að semja?

Iðnaðarráðherra hefur boðað Alusuisse til fundar 17-18. febr. n.k. til að ræða endurskoðun á samningi Íslands við Alusuisse. Ennþá er lítið vitað um hvaða kröfur stjórnvöld hyggjast setja fram. Við vitum þó að farið verður fram á hærra verð fyrir raforkuna og breytingar á skattlagningu, en ekkert hefur verið gefið upp um sjálfar kröfurnar.

Það verð sem ÍSAL greiðir fyrir rafmagnið er ekki bara lágt miðað við það sem við almennir neytendur verðum að borga. Það er líka lágt miðað við verð til álvera annars staðar í heiminum. Í Engineering and Mining Journal des. 198o er sagt frá því að Norsk Hydro hyggist reisa álver á Nýfundnalandi. Framleiðslugeta versins á að vera 15o þúsund tonn á ári. Raforkuverðið á að vera 3 sent á KWst, sem er 3-4 sinnum hærra verð en það sem ÍSAL greiðir í dag. Við ættum því með góðri samvisku að geta krafist verulegrar hækkunar á orkuverðinu.

Það eru fleiri atriði en orkuverð og skattlagning, sem ástæða er til að taka upp í þessum viðræðum. Má þar t.d. nefna endurskoðun á orkuverði í framtíðinni og upplýsingaskyldu varðandi reksturinn bæði til stjórnvalda og almennings að ógleymdum starfsmönnum álversins.

Samningsstaða Íslands.

Samningsstaða okkar stendur og fellur með þeirri samstöðu sem næst meðal þjóðarinnar um kröfurnar, fremur en einhverjum lagakrókum. En til þess að samstaða geti skapast verður að lyfta hulunni af þeim kröfum sem gera á. Almenningur getur ekki og mun ekki fylkja sér um kröfur sem hann ekki veit hverjar eru. Það er því skylda iðnaðarráðherra að upplýsa okkur, sauðsvartan almúgann, um hvaða kröfur hann hyggst leggja fram fyrir okkar hönd í komandi samningaviðræðum.

ei.

## Upplýsingar um vígbúnað






Nýlega hleyptu Sovétmenn af stokkunum beitiskipinu Kiroff. Það er búið öflugra loft- og tundurskeytavarnarkerfi og langdrægari eldflaugum en nokkurt annað herskip. Þetta er hér nefnt til þess að minna á að Varsjárbandalagið stendur NATO framar á mörgum sviðum hernaðar.

Þessa staðreynd draga hins vegar margir í efa. Einhverjir efast hreinlega um að svo geti verið, því að fyrir 1o-15 árum stóð NATO framar á öllum vígstöðvum. Aðrir draga meðvitað upp ranga mynd af raunveruleikanum af því að þeir líta á Sovétríkin sem friðsemdarríki. Svo má ekki gleyma því að kynslóðin sem hlaut sína pólitísku skírn á kaldastríðsárunum á erfitt með að sjá drottnunar- og stríðsstefnu Sovétríkjanna

framhald á síðu 2

# Verkalýðsblaðið

Útgefandi: Kommúnistasamtökin
Ritstjóri: Ómar Harðarson (ábm)
Aðsetur: Frakkastígur 14 (í húsnæði Októberbúðar)
Opnunartími: kl 15–17 á þriðjudögum og 16–18 á föstudögum.
Sími: 29212
Pósthólf: 5186 125 Reykjavík
Gírónr.: 12200–9
Prentað í prentsmiðju blaðsins


## Yfirlýsing frá framkvæmdanefnd kommúnistasamtakanna

Nýsett bráðabirgðalög ríkisstjórnarinnar hníga í sama far og flestar ráðstafanir hennar gegn verðbólgunni. Helstu kostnaðarhækkunum fyrirtækja og ríkis hefur þegar verið hleypt út í verðlag, gengi er skráð eftir þörfum stórfyrirtækjanna í fiskiðnaði og síðan skellt á lögum sem fresta verðbólgu að einhverju leyti í nokkra mánuði.

Meginefni laganna er enn frekari stuðning verðbóta og kaupmáttar en verið hefur, allt frá 1978 – hvað svo sem líður frómum yfirlýsingum stjórnvalda um að allir skuli bera byrðar. Auk þess er hér verið að gera að engu kjarasamninga sem tókst að berja saman eftir allt of langt þóf.

Laun meirihluta launafólks eru þegar allt of lág, miðað við dagvinnu og framfærslukostnað. Launamenn geta ekki tekið á sig frekari byrðar án þess að láta af hendi áunnin réttindi og lífsgæði. Atvinnurekendur og ríki eiga að blæða enda eins víst að ríki og stóreignamenn geti klipið allnokkuð af kjörum eða eyðslufé, áður en raunverulegur taprekstur hefst eða félagsþjónusta þarf að versna. Næg atvinna er gerfiröksemd fyrir aðhaldi í launamálum vegna þess að hundruð ef ekki þúsundir launamanna flytjast árlega úr landi.

Aðhald í vaxtamálum, loforð um skattatilfærslur afnám Ólafslaga o.fl. eru vissulega jákvæð atriði.



En hér er mest um yfirlýsingar að ræða, sem ekki koma til framkvæmda fyrr en síðar og þá varla, ef aðstæður breytast í vetur.
Menn muna líka að síðasta "vinstri" stjórn hélt ekki loforð sín um "samningana í gildi" þegar til lengdar lét.

Kommúnistasamtökin hljóta að vera andsnúin meginefni bráðabirgðalaganna og kjarastefnu ríkisstjórnarinnar. Verkalýðshreyfingin verður að snúast gegn kjaraskerðingum af afli og mótmæla hraustlega afnámi kjarasamninga. En þar er þess að gæta að margir forystumenn hennar taka hagsmuni fyrirtækja, ríkis og flokka fram yfir hagsmuni launafólks.
Því er varla von á skeleggri varnarbaráttu nú.

lo.l. Framkv.nefnd
miðstjórnar.

áb. ATG.

## Sellustarf er lífsnauðsyn

Mér sýnist að grunnstarf sé orðið lítið í KS. Sé það rétt, þá rísa þessi samtök ekki undir nafni og alþýða þessa lands getur tæplega vænst mikils góðs af þeim. Sarf í litlum grunn-hópum er fjandakornið ekki úrelt í kommasamtökum frekar en í öðrum félögum, sem eru með lífsmarki.

Það eru ekki bara kommúnistar, sem hittast viku- eða hálfsmánaðarlega. Ýmsir trúsöfnuðir, mergð saumaklúbba, lions-Rotary-, Kiwanisklúbbar á flestum stöðum á landinu; allir þessir klúbbar hittast all reglulega á viku eða hálfsmánaðar bili. Lions- Rotary beita sektum fyrir skróp og eftir visst mörg skróp eru menn brottrækir. Hvað fyndist félögum um slíkan aga í KS? "Stríðskommúnismi", myndi einhver segja.

Þetta fólk gefur sér tíma, það finnur sér einhvernvegin tíma, annað hvort í hádeginu, á kvöldin, milli kl. 6 og 7 eða um helgar. Þetta er náttúrule spurning um hvað hafi forgang og auðvitað hefur það forgang, sem maður álítur mikilvægast.

Starfseiningar þurfa að vera ögn persónulegri en þær voru framan af, þó má ekki ganga og langt í naflaskoðun. Það er talsverð list að mynda góðan hóp þar sem samskiptin eru traust og einlæg.

Sumir okkar félaga (félagsráðgjafar, kennarar t.d.) eiga að kunna til slíkra verka. Þó lærast þau líklega best í lífsins skóla.

Í sellu geta menn fengið stuðning og uppörfun. Við erum óhjákvæmilega í minnihluta og í talsverðum andbyr með skoðanir okkar. Umhverfið þrýstir á okkur til hægri og tælir okkur til að hlúa bara að okkur sjálfum í anda auðhyggjunnar. Sjálfsmenntun, rannsóknir og áróður í anda félagshyggjunnar verður útundan. Ef engir félaga okkar stjaka okkur til vinstri með jöfnu milli bili, þá dettum við alveg um koll á hægri hliðina og gerumst í besta falli sófakommar. Við hérna í fámenninu fyrir vestan söknum mjög þeirra tíma er við vorum í sellum fyrir sunnan og fengum þar reglulega spark í rassinn (m.ö.o. stuðning).

Hlutverk sellu sem leshóps er þýðingarmikið. Þar bera menn saman bækur sínar, miðla af því sem þeir hafa lesið og reynt. Þetta er held ég skilyrði þess að nýjir kommar verði til í einhverjum mæli, að aldir séu upp nýjir forystumenn, skríbentar baráttumenn. Sellan er einnig stuðningur við forystuna og veitir henni aðhald. Við ættum að vita betur nú, hvernig á að starfa í svona hópum, heldur en í gömlu ofurrótæku samtökunum okkar og við ættum að gera það.

Félagi fyrir vestan.

## Hvað er framundan

Frá hausti að telja hafa kommúnistasamtökin starfað með minna afli en áður. Nokkur starfsemi hefur þó farið framhjá mörgum, m.a. vegna þess hve ísl. fjölmiðlar eru lokaðir öðrum stjórnmálasamtökum en þingsalaflokkunum fjórum. Verkalýðsblaðið mun hér eftir birta stutt yfirlit yfir nýliðið starf og það sem framundan er hverju sinni. Föstum liðum er sleppt.

Þá er fyrirhugað 1. þing Kommúnistasamtakanna, í febrúar eða mars. Þar á m.a. að fjalla um stefnuskrána og breytingar á samtökunum, auk hefðbundinna starfa.

Samtökin munu fljótlega hefja athuganir á því hvernig þau taka þátt í aðgerðum 8. mars (baráttudagur kvenna) og 1. maí. Ennfremur er starf að stóriðjumálum á döfinni og heyrst hefur að samtökin Líf og land og Samtök herstöðvaandstæðinga muni gangast fyrir ráðstefnum um vígbúnað, stríðshættu, almannavarnir ofl. Þar verða kommúnistar að vera.

Um það bil sem stóra samninganefnd ASÍ kemur saman undir vorið, ætlar andstöðuhópurinn (Stéttabaráttuhópurinn) að halda ráðstefnu. Vonir eru við hópinn tengdar og því brýnt að menn leggi honum lið. Símar eru: 28161 (Hálfdán).

Vert er að minnast heimsóknar fulltrúa afgana í febrúar sem væntanlega mun gera víðreist ef nægilegur áhugi er fyrir hendi (sjá annars staðar í blaðinu).

Frekari fræðslu- og umræðufundir eru fyrirhugaðir en um þá er ekkert að segja að svo komnu máli.

Starfið með okkur og hafið samband, lesendur góðir.

– agé.

framhald af forsíðu

## Upplýsingar um vígbúnað

eða skynja aukna varkárni Bandaríkjanna á alþjóðavettvangi.

Vilji menn skýra frá raunverulegum vígbúnaði risaveldanna og eyða þeim hugmyndum að það séu Bandaríkin ein sem vígbúast, storka andstæðingnum, kúga þjóðir, efla sóknarheri æfa árásir, undirbúa kjarnavopnanotkun o.s. frv., þá verður að leggja upplýsingar á borðið. Upplýsingar um herafla, vopn, tækni, samþjöppun herliðs, herstöðvar ofl., ofl.

Þá vaknar spurningin: Hve áreiðanlegar eru aðgengilegar upplýsingar um þessi efni.

Ósjaldan heyrist sú mótbára að uppspretta þeirra sé "vestræn". Upplýsingarnar eru falsaðar og auknar til þess að réttlæta vígbúnað NATO – segja menn.

Við athugun kemur hins vegar í ljós að flestum talnanna svipar saman þótt þær komi úr ólíkum áttum. Tölum CIA og NATO svipar til talna "óháðra" stofnana s.s. í London (ISS), Stokkhólmi (SIPRI) og Washington (CWDI). Sama má segja um eigin tölur kínverja úr Beijing Rewiev. Ótrúlegt væri ef þetta táknar ekki að allir helstu drættir í vígbúnaði beggja risaveldanna eru ágætlega ljósir.

Eyðum ekki tíma í að deila um gildi talna og upplýsinga um vígbúnað, heldur um þýðingu þeirra.

– agé.

### Viðtal við formann K. S.

# Nú þarf að gera við

Nú standa fyrir dyrum ýmsar breytingar á Kommúnistasamtökunum. Blaðið hafði samband við formann KS, Ara T. Guðmundsson, og bað hann að rekja þær helstu.

ATG: –Við viljum gjarnan leggja hugmyndir félaganna um fyrirætlanir samtakanna á borðið ekki síður en fáein orð um stöðu þeirra. Fyrirætlanir eru enn á umræðu- og tilraunastigi, en viðbrögð fólks munu ráða nokkru um niðurstöður. Félagar eru almennt sammála um að draga saman yfirbyggingu samtakanna og leggja miklu meiri áherslu á útgáfu Verkalýðsblaðsins. Þá þarf að skipuleggja samtökin og störf félaga þannig að þau tengist beint við blaðið. Rannsóknir og umræður kommúnista eiga að birtast í blaðinu, mun meiri stefnumótun og skoðanabarátta. Vandaðri upplýsingar verða að koma frá félögunum og þeir þurfa allir að koma nálægt útgáfunni á einhverju sviði, Hugmyndir eru líka uppi um að opna blaðið betur fólki utan KS.

VBL: –Við vísum til sérstakrar greinar um blaðið annars staðar í þessu tbl. En verða KS þá bara útgáfusamtök?

ATG: –Einhverjir félagar myndu sætta sig við það, aðrir ekki. Ég tel að KS verði eftir sem áður að halda



lýðræðislegu og miðstýrðu skipulagi, halda uppi marxísku fræðslustarfi og félagarnir eiga að starfa í fjöldasamtökum svo þeir séu ekki eins og fiskar á þurru landi. Enda getur þátttakan í útgáfu VBL og slíkt samtakastarf farið vel saman og stutt hvað annað.

VBL: –Hve alvarleg er staða samtakanna þá?

ATG: –Svo skrítið sem það nú er þá vantar ekki áríðandi verkefni né óskir framsækins fólks um raunverulegan sósíalíska baráttu og valkost við Alþýðubandalagið á sama tíma og staða KS er slæm. Félögum hefur fækkað. Þeir gefast upp á þessu starfi sínu. Aðrir eru þrárri en hafa samt dregið úr starfi í t.d. fjöldasamtökum. Það sést miklu minna til félaga samtakanna í baráttu eða við áróður, blaðið okkar selst mjög lítið í lausasölu og áskrifendum fækkar. Fjárhagur þess er ótraustur og innihaldið einum of fátæklegt og úr tengslum við lifandi baráttu. Stefnumótun er daufleg sem síst mætti vegna þess hve himinhrópandi þörfin er fyrir sósíalíska stefnu og baráttuaðferðir. Samtímis þessu eru góðar hliðar á málum. Samtökin eiga enn á að skipa baráttufúsu fólki og þau eiga sér fylgismenn sem gera miklar kröfur til samtakanna. Grófur málflutningur marx-lenínista og of róttæk afstaða er nærri horfin en samvinnuvilji og sveigjanleiki meiri en áður. Reyndar eru KS of hægfara en það er ekki óalgeng villa sem menn rata í um tíma þegar þeir eru að gera upp við ofurróttækni. Í þessu og þeirri staðreynd að gerjunin í íslensku stjórnmálalífi er að búa til jarðveg fyrir nýja baráttusyrpu, má finna nægar ástæður til þess að "gera við" samtök marx-lenínista. Ok[illegible] vantar starfs-[illegible]tta og vinnugleði nú [illegible]emur en nokkru sinni. Því sem menn spilltu með gallaðri pólitík, geta þeir og verða að laga sjálfir. Þeir sem hafa gagnrýnt okkur eiga að vera með. Það býr enginn til verkalýðsflokk fyrir okkur.

VBL: –Stundum er rætt um kreppu marx-lenínískrar hreyfingar. Hvert er álit [illegible]

ATG: –Kreppan er staðreynd og hvorki í fyrsta eða síðasta sinn. Önnur stjórnmálasamtök viðurkenna ekkert slíkt og þeim er sjálfsgagnrýni óþekkt t.a.m. Alþýðubandalginu. Kreppan á sér tvær meginorsakir. Félagsleg og pólitísk deyfð grípur alls staðar um sig núna þegar harðnar á dalnum, ótti við stríð eykst og menn þreytast mikið á loforðasvikum flokkanna. Svo bætist þar við afturbati meðal marx-lenínista sjálfra. Uppgjörið við endurskoðunarstefnuna á 6. áratugnum fól í sér ofurróttækni sem kínverska menningarbyltingin og vestrænir kommúnistar eru dæmi um. Við tókum of lítið mið af aðstæðum, vorum blindir á eðlilega galla marxismans og ætluðum okkur um of.

Við hlustuðum of lítið á gagnrýni frá t.d. verkafólki, enda of fáir verkamenn í okkar hópi. Kreppan er því ekki neitt undarleg. Mér líst verst á "hinn öfgann", þ.e.a.s. þegar menn gleyma því góða úr öllu saman, nauðsyn góðrar skipulagningar, virkni, fjöldastarfs, valdbyltingar eða áróðursstarfa, svo dæmi séu nefnd. Kommúnistasamtökin eru bráðnauðsynleg til að ná betri árangri í framsækinni baráttu. Þau verða að læra að lifa með öllum kreppum, liðnum og ókomnum, því þannig gengur stéttabaráttan nú einu sinni fyrir sig.

# Úr starfi Kommúnista samtakanna

Síðasti stefnuskrárfundur samtakanna verður 9. febrúar í Rvk., í kaffiteríu Hótel Heklu kl. 2o.3o. Umræðuefnið er utanríkisstefna kommúnista og verður reynt að fá andmælendur á fundinn. Verður svo snarlega unnið að því að fjölrita kaflana fimm og þeim dreift meðal félaga og alls áhugafólks. Pöntunarsími er 359o4.

## *Margir fundir*

KS hafa haldið fjóra fundi af fimm um nýja stefnuskrá sína. Þeir eru öllum opnir og voru ágætlega sóttir framan af en dauflegar nú. Búið er að funda um sósíalismann, verkalýðsflokk og verkalýðshreyfingu, ísl. auðvaldsskipulagið og jafnrétti–mannréttindi.

Þá gekkst framkvæmdanefnd samtakanna fyrir fundi um varnarmál með fulltrúum allra flokka (2.des.) Heppnaðist hann vel en var öllu minni í sniðum en áætlað var. Þá tóku nokkrir félagar samtakanna þátt í ráðstefnu andstöðuafla í verkalýðshreyfingunni skömmu fyrir ASÍ-þingið og var einn þeirra kosinn í eins konar stjórnarnefnd "Stéttabaráttuhópsins".

## *Enn fleiri stuðnings yfirlýsingar*

KS hafa ávallt haft þann siðinn að senda frá sér alls konar yfirlýsingar eða kveðjur af ýmsu tilefni Oft vita menn ekki af þeim vegna þess hve treg blöð og útvarp virðast vera til birtingar þeirra.

Af stuðningsyfirlýsingum undanfarið má nefna sendingar til baráttufólks í Alta í Noregi, til Gervasonis, til bankamanna í verkfalli, sjómanna og til farandverkafólks við kjarasamninga og síðar.

Samtökin hafa ályktað um ASÍ-samningana, um nýjustu efnahagsráðstafanirnar og sent öllum stjórnmálasamtökum bréf með ósk um sem breiðasta samstöðu um stuðning við Pólverja ef til innrásar sovétmanna kæmi.

## *Afganistan og Hagaskólinn*

Af einstökum verkefnum skal hér nefndur skemmtilegur kynningarfundur stjórnmálaflokkanna sem KS tóku þátt í með nemendum Hagaskóla. Mættu aðrir skólar gera meira af slíku. Þá hafa nokkrir félaga KS tekið þátt í að undirbúa komu fulltrúa afganskra þjóðfrelsismanna til landsins.

-agé.

# John Lennon



Morð á vinstrisinnum eru daglegur viðburður í Bandaríkjunum. Morðið á John Lennon kom því ekki á óvart. Í raun mátti búast við morðinu mikið fyrr.

John Lennon var skráður kommúnisti hjá CIA löngu áður en hann varð sósíalisti. Um miðjan sjöunda áratuginn heimtuðu Ku Klux Klan samtökin í Bandaríkjunum, dauða yfir þessum "stórhættulega trúlausa moskvuagent". M.a. brenndu þau á götum úti bítlabrúður og bítlaplötur á krossum.

Hægri öfgasinnar voru alla tíð ólatir við að senda Lennon morðhótanir. Einn þessara manna var Chapman morðingi Lennons. Af skiljanlegum ástæðum eru vestrænar fréttastofur ekkert að hampa þessu atriði.

Ótrúlega margar plötur Lennons voru bannaðar í enskumælandi löndum. Ekki á þeirri forsendu að á þeim voru sósíalískir byltingarsöngvar. Nei, það hefði verið of afhjúpandi fyrir "lýðræðisöflin". Heldur var fundið út að á plötunum væri pínulítið klám, óábyrg umfjöllun um eitur lyfjaneyslu o.s.frv.

Áhrif Lennons á þróun sögunnar verða aldrei metin að fullu, hvort sem um er að ræða áhrif hans á poppmúsíkþróunina og popptextagerð eða á skoðanir og lífsstíl ungs fólks. Hippahreyfinguna og stúdentauppreisnirnar á sjöunda áratugnum má t.d. hiklaust rekja til Bítlaæðisins svonefnda. Sömuleiðis er óhætt að taka undir þá fullyrðingu Pauls McCartneys að Lennon hafi átt stóran þátt í að stöðva fjöldamorð kanans á bændaþjóðum Indókína.

Óumdeilanlega var Lennon annað mesta tónskáld sögunnar. Jafnframt var hann stórkostlegur rokksöngvari og frábær textasmiður. Plötur hans eiga því eftir að snúast á plötuspilurum fólks um allan heim um ókomna framtíð. Og þá munu lög á borð við "Power To The People", "Imagine", "Working Class Hero", "Only People" o.m.fl. minna á manninn sem dreymdi um alheimssósíalisma. Manninn sem fékk ekki að dreyma drauminn á enda. Manninn sem var myrtur í landi því sem trúin á byssuna er svo hátt skrifuð að hún er notuð sem vinargjöf til illræmdustu harðstjóra og morðhunda S-Ameríku.

*tónlist*

j.guð.

Lausasala: kr. 400
Ársáskrift: kr. 6.000
Árssstuðningsáskr: kr. 12.000
Ársáskr. til útl: kr. 12.000

Verkalýðsblaðið

1.tbl.10.árg. 31.1.1981

# Flokkstengslin eru hér

Ráða flokkshagsmunir verkalýðshreyfingunni? Reynslan bendir til þess. Hér á eftir fer listi yfir marga framámenn hreyfingarinnar og flokksaðild þeirra. Lesendur geta svo reynt að rifja upp reynslu sína af þessu fólki og málflutningi þeirra og borið það saman við fullyrðingar um að hagsmunir stéttarinnar standi hagsmunum stóru flokkanna ofar.













Sjálfstæðisflokkur:
Magnús L. Sveinsson (Verslunarm.fél.Rvk. og landssamband versl.m)
Guðmundur H. Garðarsson (Versl.m.fél.Rvk.)
Bjarni Jakobsson (Iðja og Landssamb.iðv.f.)
Björn Þórhallsson (Landssamb.vers.m.)
Magnús Geirsson (Fél. ísl.rafvirkja)

Alþýðuflokkur:
Þórunn Valdimarsd. (Framsókn)
Karl Steinar Guðnason. (ASÍ o.fl.)
Jón Helgason (Eining, Akureyri).
Karvel Pálmason.
Hermann Guðmundss. (Hlíf, Hf.)

Alþýðubandalagið:
Ásmundur Stefánss. (forseti ASÍ)
Snorri Jónsson (fyrrv. forseti ASÍ)
Guðmundur J. Guðmundss. (Verkam.samb.)
Eðvarð Sigurðsson (Dagsbrún)
Jón Kjartansson (Vestmannaeyjar)
Benedikt Davíðsson (Samb.byggingarmanna)
Jón Snorri Þorleifss. (Trésm.fél.Rvk.)
Guðmundur Þ. Jónsson. (Landssamb.iðnv.fólks)
Guðjón Jónsson (Fél. járniðn. Rvk.)
Einar Ögmundsson (Landssamb. vörubifr. stj.)
Jón Ingimarsson (Iðja, Akureyri).
Grétar Þorleifsson, (Trésm.fél.Rvk.)
Haraldur Steinþórss. (BSRB)
Jón Hnefill Aðalsteinss (HÍK)
Jón Hanness. (launam. ráð.BHM)
Tryggvi Aðalsteinss. (MFA).

Hér er nánast einungis um þekkta menn að ræða og raunar aðeins dæmi um þá. Ótaldir eru margir stjórnarmenn í stórum félögum, formenn félaga á landsbyggðinni og nefndarmenn sambandanna. Þó er áberandi að fyrrgreindir einstaklingar sitja í meirihluta allra nefnda sem samböndin skipa í.

Verkalýðsblaðið tekur það skýrt fram að fyrrgreindir verkalýðsforingjar hafa sumir hverjir tekið lofsverða afstöðu í stöku málum. Það er heildarstefna þeirra og starf sem við gagnrýnum harðlega.

- agé.

BÓKSÖLUNNI LOKAÐ.

Október-forlagið hefur rekið bóksölu í samvinnu við handhafa verslunarleyfis nú í tæp tvö ár að Frakkastíg í Reykjavík. Með minnkandi umsvifum Kommúnistasamtakanna hefur bóksalan rýrnað, úrval minnkað og viðskiptin sömuleiðis. Búðin er alldýr í rekstri. Nú er orðið nauðsynlegt að loka bóksölunni sem slíkri. Í stað hennar munu samtökin og VBL hafa þar opna skrifstofu en afgangar af eigin efni KS og sýnishorn af erlendu efni verða þar til sölu við vægu verði, án söluskatts. Fyrst um sinn er opið að Frakkastíg á þriðjudögum kl. 15-17 og föstudögum kl. 16-18. Síminn er 29212. Pósthólf 5186,125 Rvk.

Framkv.nefnd.

### Frá ritnefnd.

## Áskorun til lesenda

Ritstjórn Verkalýðsblaðsins beinir nú enn einu sinni þeim tilmælum til lesenda sinna að þeir láti í ljós óskir sínar varðandi efni blaðsins, - hvort heldur um er að ræða óskir um nýbreytni og endurbætur er varða efnisval eða efnistök. Megi það nokkuð hjálpa, þá eru hér nokkrar spurningar sem þeir sem álit hafa mættu hafa á bak við eyrað:

1. Hvað af innlenda og erlenda efninu finnst þér best heppnað og hvað lakast?
2. Hvað finnst þér um vægi innlends og erlends efnis?
3. Er umfjöllun Verkalýðsblaðsins nægilega ýtarleg?
4. Er einhver málaflokkur sem þér finnst blaðið vanrækja?
5. Er einhverju ofaukið í blaðinu?
6. Eru greinar í blaðinu torskildar? Ef svo er, að hvaða leiti?

Að sjálfsögðu getur hver og einn skeytt við athugasemdum að eigin geðþótta.

Þess má geta í þessu samhengi, að nokkur umræða fer nú fram í ritnefnd og innan Kommúnistasamtakanna um það með hvaða hætti Verkalýðsblaðið á að beita sér í samræmi við þá erfiðu stöðu sem kommúnistasamtökin eru í núna. Þykir sumum sem blaðið verði nú í auknu mæli að snúa sér að stefnumótun K.samtakanna. Hugsanlega hefði það í för með sér að blaðið höfðaði til þrengri hóps en áður, greinar yrðu e.t.v. lengri og ýtarlegri. Látið athugasemdir þar um fylgja.

ritstjórn.

# Nýtt fyrirkomulag á útgáfunni

Nú eru til umræðu hjá kommúnistasamtökunum ýmsar leiðir til úrbóta á vandræðum við útgáfu Verkalýðsblaðsins. Efni þarf að verða vandaðra, meira í tenglsum við stéttabaráttu dagsins, líflegra og umræður meiri. Virkja þarf fleiri höfunda, fjölga áskrifendum, hefja lausasölu og auglýsa blaðið svo nokkuð sé nefnt.

Hér fara á eftir ýmsar hugmyndir um hvernig að þessu megi standa. Eru lesendur hvattir til að segja álit sitt.

1. Sameina má stjórn KS og VBL og fá flestum félögum og starfseiningum samtakanna verkefni við ritstörf og aðra þætti útgáfunnar.
2. Bjóða má fleiri óháðum aðilum rúm í blaðinu til skrifa um ákv. mál og bjóða einstaklingum að taka beinan þátt í útgáfunni sjálfri, bæði í handverki, í hluta af ritstýringunni og fjármálunum.
3. Einhverjir þættir, t.d. setning blaðsins, geta færst frá samtökunum til prentsmiðja á alm. markaði. Samtökin geta selt ýmis konar tæki.
4. Finna þarf leið til þess að fá áskrifendur til að greiða gjöld sín jafnar og ná inn lausaskuldum. Finna þarf leiðir til að kynna VBL sem lausasölublað. Styrktarmannakerfi gæti líka komið til greina.
5. Mætti hafa lesbók með blaðinu öðruhvoru með stærri greinum og ýmis konar umræðu?

Hvað finnst þér? Hvað getur þú gert til þess að Verkalýðsblaðið komi áfram út og geti síðar aukið útgáfutíðnina á ný? Nú veltur meira á þér en áður. Málgagn til vinstri við Þjóðviljann er nauðsyn.

Framkv.nefnd.